# Æfiminning

# ÓLAFS PJETURSSONAR

## dannebrogsmanns.



Gefin út

af

Þorvarði Ólafssyni.

Reykjavík.

Prentuð í prentsmiðju Íslands, hjá E. Þórðarsyni

1854.



Ólafur Pjetursson er fæddur árið 1764, í Ólafsvík í Snæfellsnessýslu. Faðir hans, Pjetur Jónsson, var bóndamaður, og bjó lengi á allri Ólafsvík, hann var fjáður vel, og talinn afbragðsmaður sökum hugvits, hagleiks og dugnaðar, eins og margir hafa verið í þeirri ætt. Hann var bróðir þeirra Guðbrandar í Dölum vestur, sem meistari varð í gullsmíði utanlands, og Ólafs lögrjettumanns á Lundum, er einnig var mesti hagleiksmaður. Jón faðir þessara bræðra bjó í Breiðafjarðardölum. Hann var Ólafsson Pjeturssonar, í Gröf i Miklaholtshrepp, er var dótturson Narfa prests í Hýtarnesi. Pjetur í Gröf átti Oddnýu, dóttur Torfa Ögmundssonar á Leyrá. En kona Torfa og móðir Oddnýar, var Steinvör, dóttir Böðvars prests í Reykholti Jónssonar, prests samastaðar, er var bróðir Gissurar biskups í Skálholti. En faðir þeirra var Einar prestur, sonur Sigvalda Lángalíf, er var sonur Ólafar ríku á Skarði, dóttur Lopts ríka

á Möðruvöllum, Guttormssonar. Móðir Ólafs og kona Pjeturs í Ólafsvík, hjet Ástríður Árnadóttir Ögmundssonar, að Haukatungu og Stapa. Hún var vel að sjer gjör um marga hluti, framkvæmdarsöm og búkona hin bezta. Ólafur var hjer um bil tveggja ára, þá er faðir hans dó. Liðu þá þrjú ár, þar til móðir hans giptist í annað sinn, Magnúsi nokkrum Sigurðarsyni er kallaði sig *Lund*. Hann var sigldur iðnaðarmaður. Ástríður hafði átt eigur miklar eptir fyrri mann sinn, sem urðu að engu við húsbændaskiptin, vegna eyðslusemi Magnúsar Lunds. Buðust þá hjón nokkur til að taka Ólaf og ala hann upp, var samastaðurinn góður, og samkvæmt vilja móður hans; var hann þangað látinn fara og var þar um hríð. En ekki festi hann indi þar, og sögðu menn það hefði komið af fastheldni, og gjörðist því órórri sem hann var þar lengur; varð þá eigi annar kostur, en að hann færi heim aptur til móður sinnar, og ólst hann síðan upp hjá henni og stjúpföður sinnm. Ólafur fjekk gott uppeldi hjá móður sinni, hún vandi hann á reglusemi og starfsemi, og ljet kenna honum sæmilega að skrifa. Snemma hafði á því farið að bera, að Ólafur var laglegur til ýmsra starfa, líka þótti hann umfram aðra jafnaldra sína að greind og fjöri; en einkum bar á löngun hjá honum til smíða. Ætíð þá er kunningjar hans komu að

finna hann, sýndi hann þeim mikin flota af smáskipum, er hann hafði smíðað, og þóttu þau furðanlega lagleg. Hann sagði svo sjálfur frá, er hann minntist á þessar smíðar sínar, að sig hefði þó langað mjög til að smíða, en vantað að mestu, bæði efni og tíma til þess. Þegar hann var um tvítugsaldur, sá hann opt til smíða Ólafs Björnssonar í Munaðarhóli, er var nafnkunnur skipasmiður; nam hann af honum mart, og tók sjer snið eptir honum í smíðum sínum. Þegar Ólafur var rúmlega tvítugur að aldri, rjeði Ólafur stiptamtmaður Stephensen hann til sín fyrir smið; leist Ólafi ráð til hans að fara, og lagði af stað að vestan frá móður sinni, fjelaus og snauður, sem ráða má af því, að á þeirri ferð kom hann að Hvítárvöllum og var þar nótt; þar var verið að bjóða byssu til sölu, og langaði Ólaf til að eignast hana, þó fjelaus væri; en til þess að verða ekki af kaupinu, skar hann silfurhnappa úr peisu sinni og lèt fyrir byssuna; en bráðum hafði hann þó mikinn hag á kaupi þessu. Hjá Ólafi stiptamtmanni dvaldi Ólafur í fimm ár. Þá kvongaðist hann í fyrra sinni, og átti Málfríði Guðmundsdóttur frá Hlíðarhúsum við Reykjavík. Mun þetta hafa gjörzt árið 1794, og það sama ár reisti hann bú á Kúludalsá á Akranesi. Á þessum árum fór nú að bera á atorku hans í ýmsum greinum. Hann var þá nýlega farinn að vera

formaður, og hafði eignazt skip sjálfur, er hann var fyrir lengi síðan. Heppnaðist honum formennskan ágætlega, enda var hann á þeim árum talinn einhver hinn röskvasti og bezti sjómaður á suðurlandi. En engu minna þótti þó varið í hagleik hans og dugnað við skipa- og húsa-smíðar, sem hann þá stundaði, fremur öllum öðrum störfum. Enda blómgaðist nú hagur hans svo, að hann, fyrir sakir frábærrar atorku og hamingju í öllum viðburðum, gat að fáum árum liðnum, eður árið 1801, keypti Kalastaða torfuna, 60 hundruð að dýrleika, í Saurbæjar-sókn, og fluttist þangað síðan búferlum árið 1804. Á Kalastöðum missti hann konu sína eptir 23 ára sambúð árið 1817, hafði hann eignazt með henni 3 börn, tvo sonu og eina dóttur: Pjetur, Guðmund og Ástríði. Bjó hann þá tvö ár sem ekkjumaður, með dóttur sinni Ragnhildi, sem hann hafði eignazt ókvæntur á vesturlandi, og sem seinna giptist Gunnari stúdent Þorsteinssyni á Hlíðarfæti.

Í þenna mund bjó í Brautarholti á Kjalarnesi Þóra ekkja Þorvarðar Oddssonar, þess er drukknaði fyrir framan Vatnsleysuströnd árið 1808, gekk Ólafur að eiga Kristínu dóttur þeirra árið 1819. Þorvarður hafði verið valinkunnur maður og góður bóndi. Systkin hans voru þau: Hálfdán prestur að Mosfelli, sem drukknaði með bróður sínum. Gróa seinni kona Jóns

prests Hjaltalíns, og Guðrún, frú Stepháns Amtmanns Stephensens, er seinna giptist Þórði Sveinbjarnarsyni, konferenzráði. Faðir þeirra systkina var Oddur prestur á Reynivöllum, sonur Þorvarðar lögrèttumanns og merkisbónda í Brautarholti, Einarssonar, Þorvarðssonar í Hvítanesi. Þóra ekkja Þorvarðar Oddssonar var dóttir Guðmundar bónda í Fljótsdal, Nikulássonar sýslumanns í Rangárvallasýslu, sem fannst dauður í Vatnsgjá á alþíngi 1742. Nikulás var sonur Magnúsar á Hólum í Eyjafirði, Benidiktssonar, sem hertekinn var af Tyrkjum, en keyptur aptur af frændum sínum og vinum, og hjelt síðan Möðruvalla-klaustur. Beuidikt var sonur Páls sýslumanns Húnvetninga, er var sonur Guðbrandar biskups Þorlákssonar. Eptir að Ólafur hafði gipzt í annað sinn, árið 1819, sem áður er sagt, flutti hann sig hið næsta ár búferlum frá Kalastöðum að Kalastaðakoti, og bjó þar alla æfi síðan. Árið 1838 veitti konungur honum dannebrogsmanns nafnbót, og heiðursmerki dannebrogsmanna, fyrir framtakssemi hans og atorkn, og langa þjónustu sem sáttasemjari. Áður hafði hann fengið að verðlaunum frá hinu konunglega landbúnaðarfjelagi, silfurbikar, fyrir afbragðsdugnað í skipa- og húsa-smíðum. Nokkur seinustu árin meðan alþíng stóð, var hann lögrjettumaður. Sýndi þetta allt, með öðru fleira, að menn möttu hann með fyr-

irtaksmönnum í sinni stjett. Ólafur var alla æfi hinn heilsuhraustasti maður, þangað til þrjú síðustu árin; þá tók að sækja á hann megn svími og þverrun kraptanna, þó bar aptur minna á því hið síðasta ár, sem hann lifði. Vorið 1843 gekk landfarsótt, all mannskæð. Þá kendi hann kvilla nokkurs, en var þó jafnan á fótum og starfaði að ýmsu er með þurfti. Gekk hann þá einn dag til skips síns og fór að smíða, eða gjöra við það, en gat ekki að gjört, og gekk við það heim. Þá lagðist hann í rúm sitt og mælti þessi orð: „Hönd er lúin minkar magn, mál er að búast hèðan“. Lá hann þá rúmfastur tæpa tvo daga, og andaðist þann 18. júlímánaðar, á sjötugasta og níunda aldurs-ári, og hafði þá búið 24 ár saman við seinni konu sína; höfðu þau þá átt saman einn son og tvær dætur: Þorvarð, Þóru er dó í Kaupmannahöfn og Rannveigu.

Ólafur Pjetursson var hár meðalmaður að vexti, rjettvaxinn, herðabreiður og þrekinn, vellimaður og miðmjór. Framan af æfinni var hann ljósleitur á hár, en þegar hann tók að eldast, varð hárið dökkjarpt, og varð hann þá dökkur á brún og skegg. Opt var hann nokkuð alvarlegur á svip, en gat þó orðið blíðlegur, en þó ávalt stillilegur. Andlitið var skapfellilegt, kringluvaxið, ennið meðallagi hátt; fremur var hann brúnþungur, nokkuð grannleitur, en þó

dálítill roði í kinnunum; hann var dökkeigur og smáeigur, og voru augun bæði skarpleg og fjörleg. Rómurinn var mikill, karlmannlegur og hreinn, og því var hann söngmaður góður og lagsæll. Í skapferli var hann stilltur og gætinn; mælt var að eigi hefði hann verið allra vinur, en manna var hann trúfastastur og vinfastastur. Hann var þolinmóður og þrautgóður, vel hugaður og djarfur, og flestum mönnum ráðsnarari í hættum eða vandræðum. Hann var snarlegur og alvarlegur í fasi, mjög fóthvatur og ljettur í göngu, var hann því á ýngri árum einhver hinn knáasti og liprasti glímumaður. Hann var einhver hinn mesti atgjörfismaður til sálar og líkama; var hann ákaflega fljótur að átta sig í öllu sem hann fór um að hugsa, eins og hugvit hans, ráðdeild og framsýni, sýndu skarpar og ljósar náttúrugáfur; hann fór þar opt leiðar sinnar, er öðrum sýndist ófært að fara, honum var gefið að sjá, hvað bezt ætti við, og hvernig hverjum hlut yrði kostnaðarminnst og hægast fyrir komið, og þess vegna lánaðist honum vel að hartnær öllum sínum fyrirtækjum. Hann var ávallt fróðleiksgjarn og hneigður fyrir að lesa bækur, en ýms störf og búsýsla, bægði honum að nokkru leyti frá því, eins og vant er að vera fyrir bændum; hagmæltur var hann, og fljótur að koma saman vísu, en vanaði það sjaldan.

Það hafa margir mælt að Olafur Pjetursson hafi í búnaði og smíðum, verið einhver hinn mikilhæfasti atorkumaður í bændastjett á sinni tíð. Sem dæmi upp á það, hvað miklu hann gat afkastað, má geta þess, að það var stöðug venja hans, að smíða sexæring, eins og þeir gjörast á Suðurlandi, með öllum áhöldum og saum, á fimm dögum, en tveggja manna far, eða bát með öllu saman, að frátekinni sögun, á þrem dögum.

Til annarar vinnu var hann talinn gildasti tveggja maki. Einhverju sinni var hann spurður, hvað hann hefði starfað mest á einum degi, kvaðst hann þá eitt sinn hafa smíðað 16 samsuðuljái á dag, og í öðru sinni, er hann hafði lokið að smíða tíæring á hálfum mánuði, þá smíðaði hann allar árarnar 10, á einum degi, og var í hvorttveggja sinn búinn að miðjum aptni. Þó var hann manna vandvirkastur, því ekkert smíðaði hann svo, að eigi vandaði hann það sem bezt varð. Eigi verður það sagt með vissu, hversu mörg skip Ólafur hefur smíðað af nýju, þó var hann einhverju sinni spurður að því, og svaraði hann með vísu þessari:

„Súða dýr á síldar flet,
sá eg löngum tamin:
tvö hundruð og tólf eg ljet,
trútt af stokkum lamin“.

Ekki er víst hvenær hann orti vísu þessa, samt

vita menn að hann byggði mörg eptir það; hafa þau vissulega verið mjög mörg er hann byggði í allt, því uppfrá því hann var rúmlega tvítugur, og fram yfir sextugsaldur, starfaði hann mjög heima og annarstaðar að skipa- og húsa-smíðum. Fjármunir þeir sem hann ljet eptir sig á dánardægri, báru einnig vott um dugnað hans; hann var fyrst fátækur, eins og áður er áminnst, en þá hafði hann eignazt hjer um bil hálft annað hundrað hundraða í vænum jörðum, og ljet eptir sig eitthvert hið bezta bú. Hafði hann aflað fjármuna þessara með starfsemi sinni og smíðum, með því líka búhagurinn hafði ávallt blómgazt, sökum stjórnsemi hans og viðleitni í því, að bæta og prýða jörð sína á ýmsan hátt.

Hjer látum vjer fylgja grein, sem nákvæmar lýsir Ólafi Pjeturssyni, og sannar það sem vjer áður höfum sagt; er hún tekin úr ræðu þeirri, sem Ólafur prestur Einarsson Hjaltsteð hjelt við útför hans; munu allir, sem þekktu Ólaf Pjetursson, kannast við að þar er ekki sagt annað en hið sanna, því heldur sem ekki var að búast við öðru af sjera Ólafi, er bæði var sjálfur afbragðsmaður, aðgætinn og ráðsettur, og hafði þar að auki næma tilfinningu fyrir öllu, sem mikið var í varið, fagurt gott og gagnlegt. Hann hafði einnig gott tækifæri til að kinnast við Ólaf Pjetursson, þar hann var sóknarprestur hans. Hann segir svo: „Það eru nú orðin hjer um bil

fjörutíu ár, sem Ólafur Pjetursson hefur verið fjelagsbróðir vor, og hefur hann öll þau ár verið fyrirmynd stjettar sinnar hjá oss, og prýði og máttarstoð sveitarinnar; hartnær öll þessi ár hefur hann verið forlíkunarmaður vor; og hartnær öll þessi ár, hefur hann verið meðhjálpari og forsaungvari í þessu húsi. Hann var einhver hinn mesti atgjörfismaður til sálar og líkama, sálin var fjörug, huguriun snar, minnið óbrigðult, og hvaða starf sem hann hafði á hendi, mátti um hann segja, eins og ritningin að orði kemst, að sál hans væri hjá honum; því það er orðlagt af þeim, sem sáu hann starfa, meðan hann var í fullu fjöri, að ekkert spor, ekkert viðvik, sást til ónýtis stofnað í verki hans. Hann var manna fáorðastur og orðsparastur, en þau orð sem á varirnar komu, voru sannmæld og djörf, og þóttu snöggfeldari og hæfnari en annara manna, og vottuðu hvassar sálargáfur. Hann var fálátur og spaklyndur, stilltur vel og þollyndur, og er mælt, að hann hafi á þessu þurft að halda á ýmsum köflum æfinnar. Reiður sást hann aldrei. Hann var manna afskiptalausastur um alla þá hluti, sem honum ekki komu við, og svo frásneiddur styrjöldum, að hann vildi heldur láta nokkuð af hluta sínum, en eiga í þrasi við aðra menn. Hann var mesti reglumaðnr og hófsmaður um alla hluti, fjærlægur öllu yfirlæti, drambi og hjegómasemi, og er það

til merkis, að hann mun ekki nema einusinni eða tvisvar í öll þau ár, sem hann var dannebrogsmaður, hafa sjezt bera heiðursmerki sitt. Hann hirti aldrei um að auðkenna sig með neinni útvortis viðhöfn, eða óþarfa kostnaði, og þó var hann elskaður og virtur af hverjum, sem þekkti hann; enda er það mála sannast, að þess heiðurs og hamingju, sem honum hafði hlotnazt, aflaði hann ekki með smjaðri eða fagurgala, heldur með sönnum maklegleikum. Margir hugsa að hann af náttúrufari, hafi heldur verið fastur en ör af fje, þó var hann gestrisinn og góðgjörðasamur, eins og hann var ástúðlegur og viðfeldinn heim að sækja, öllum þeim, sem ekki voru of fjærri skapi hans. Fáir munu hafa viljað biðja hann að bæta úr hjegómlegum og óbrýnum þörfum, en aldrei mun neinn hafa synjandi frá honum farið, sem bar upp fyrir honum sanna og brýna nauðsyn. Sýnir þetta að hann var hygginn og góður ráðsmaður yfir því fje, sem honum var lánað. Hann var einhver hinn fyrirhyggjumesti, öflugasti og besti húsfaðir, þó jafnaðarlega fálátur, stundum við kaldur, eins og sumir fyrirhyggju - og þrekmiklir húsfeður eru, sem líkt eru skapi farnir; stóð því hjúum hvergi opin aðgangur, til að leyfa sjer nokkra dælsku við hann, eins og velþóknun hans, þegar honum þótti við eiga að láta hana í ljósi, var hjúum fyrir þá sök því dýrmætari. Hús-

stjórnin var honum auðveld, sökum virðingar þeirrar og elsku, er hjúin báru fyrir húsföðurnum. Hafði hann margt til að vera góður húsfaðir, og meðal annars það, að hann var góður trúmaður, og hjelt vel uppi allri reglu á heimili sínu í því, sem miðaði til að efla guðsótta og góða siðu. Hann var alla æfi allra manna kirkjuræknastur. Traust hans á forsjóninni var sterkt, þakklátsemi við guðdóminn lifandi og viðkvæm, vottaði hann það hvorttveggja, þegar svo bar undir, með hinum kjarnamiklu fáyrdum, sem honum voru töm, sem indælt var að heyra, og þýðingarmikið af slíkum manni, er jafnmörg ár og jafnmikla reynslu hafði á baki. Annað var það, að hann var einhver hinn mesti starfs- og iðju-maður; hann starfaði seint og snemma, og ætíð það sem hverjum tíma tilheyrir; hann tók vara á tímanum, því hann vissi að sjerhvert áform undir himninum hefur sína stund. Var það svo orðin venja, að hans heimili var í öllum störfum á undan öðrum heimilum. Þegar heilsa hans fór að styrkjast aptur, þetta hið síðasta ár hans, tók hann aptur að freka starf sitt, og það svo, að hann gaf ekki gaum að þeirri sótt, sem nú gagntók alla limu hans; þeirri sótt, sem varð helsótt hans, heldur var jafnan á ferli við venjulega umsjón, og starfaði að því sem honum þótti við liggja, svo sem það mundi ekki vera

nema kvef-kvilli nokkur, sem ásókti hann, því hann vissi ekki að það var dauðans engill, sem snart hann sinni köldu hendi. Verður því varla svo að orði kveðið, að hann hafi legið banalegu, heldur mátti það heita, að hreystimaðurinn gengi umsvifalausi inn til hinnar miklu hvíldar“.

Ýms dæmi eru í margra minnum, þeirra er nú lifa, upp á atgjörfi Ólafs Pjeturssonar, atorku hans, karlmennsku, snarræði, orðheppni o. s. frv. Skal nú auka hjer aptan við fáeinum smásögum slíku viðvíkjandi, þar þær lýsa mörgu hjá manninum, af því sem nú var nefnt, og bera meðfram ljósan vott um gáfur hans og lundarlag. Vjer búumst við, að sumum kunni að þykja smásögur þessar hversdagslega, sumar hverjar, en þess ber að gæta, að flestir menn þekkjast bezt, einmitt af hinu hversdagslega, er menn svo kalla, og þess annars, að eingin áreiðanleg frásaga, af jafnvel minnstu atvikum í lífi og fari afbragðsmanna, má hversdagleg heita í sömu þýðingu og ómerkileg.

Ólafur var fyrst formaður hjá Ólafi stiptamtmanni Stephensen, fyrir skipi er þeir áttu báðir saman, hálft hver. Stiptamtmaður vildi með eingu móti selja Ólafi sinn hluta skipsins, þrátt fyrir ítrekaða fölun hans, því hann hugði á búnað og vildi því eiga það allt sjálfur, en hinn sá skaða sinn að verða af formennsku Ólafs, sem var aflamaður mikill. Að lyktum

sagði Ólafur Pjetursson, að fyrst hann fengi eigi skipið keypt, þá yrði að skipta því millum þeirra. Tók Ólafur það þá fyrir, svo fáir vissu, að hann sagaði sundur skipið, tók annan helfing til sín, og smíðaði úr hið bezta skip, er hann átti lengi síðan. Eigi er sagt hvernig stiptamtmanni hafi orðið við, en svo er mælt, að Ólafur hafi seinna smíðað við hinn helfinginn fyrir húsbónda sinn.

Björn Teitsson, ættaður vestan af Snæfellsnesi, sá er í mörg ár var póstur vestanlands, var fjölda vertíða háseti hjá Ólafi. Björn var mikill vexti og eins að burðum; voru á stundum glettur með þeim Ólafi og Birni. Það var einhverju sinni er Ólafur var að smíða, á Innrahólmi, að tilrætt varð um Bergþór nokkurn, mikin hreystimann, segir Ólafur þá meðal annars: „einhver bezti ræðari er þessi Bergþór“; „eigi var hann kallaður nema meðalmaður undir jökli“; mælti Björn. „Þá ert þú ekki nema annarar handar maður við mann“ sagði Ólafur. Við þetta kom hálfvegis þykkja í Björn, og kvað hann sjer standa á sama, hversu hann dæmdi um það. „Þá er að reyna strax ef þú vilt“ segir Ólafur. Var þá jafnskjótt gengið til sjávar, teknir tveir vottar, og hrundið fram báti; en sem þeir voru komnir á flot og taka til róðurs, snýr Ólafur þrem sinnum á Björn, með annari hendi; þá segir Ólafur, „er það ekki fullreynt“?

hinn svarar engu, en heldur áfram að róa, og í þungu skapi. „Þá er bezt að aðrir dæmi“, mælti Ólafur, fleygir sjer fyrir borð, og syndir til lands. Sögðu menn þar hefði verið meiri snerpu- og snarræðis-munur en afls, því Björn hafði verið litlu burðaminni.

Björn undi þessu illa, og einhverju sinni skömmu seinna voru þeir í kappróðri, og voru búnir að róa langan veg, en sem þeir voru komnir að skeri nokkru, skamt frá lendingu, hafði Ólafur róið svo fast, að skipið var því nær komið upp á skerið, þá herðir hann enn meira á og segir: „hendi harðara Björn minn“, „það er nú ekki hægt“, sagði Björn, „og verður þú nú að vægja, ef ekki á ver að fara“.

Það var einhverju sinni að Ólafur stiptamtmaður fór sjóveg frá Innrahólmi suður í Reykjavík, og var Ólafur Pjetursson formaður fyrir skipinu. Þegar þeir voru albúnir til heimferðar aptur og komnir á skip og hásetar í sæti sín, kemur stiptamtmaður og biður þá að sækja kút einn lítin, er orðið hafi eptir í sölubúðinni. Ólafur sprettur þegar upp og hleypur til búðarinnar. Sjer hann þá, að þetta er ekki kútur, heldur full brennivínstunna. Hann þrífur tunnuna, leggur á herðar sjer og heldur í laggirnar; gengur síðan til skips, og leggur hana í skutinn. Þótti stiptamtmanni og þeim er á skipinu

voru, karlmannlega að verið, með því líka vegurinn var býsna langur.

Eitt sinn var það sem optar, er Ólafur var á fiskimiði í Akurnesingaleitum, langt undan landi, að veður fór vaxandi og sjórinn ókyrðist. Björn Teitsson var þú háseti hans og þótti of mikið dregið á skipið, í slíku veðri — því hann var fremur sjódeigur. Ólafur ljet enn draga nokkra fiska, en segir síðan Birni að draga stjórann, sem var, að venju, hans ætlunarverk. Þegar stjórinn er kominn undir borð, spyr Björn: „hvar á að láta stjórann, formaður?“ „í sjóinn ef ekki er rúm í skipinu“, mælti Ólafur; „svo skal vera“, segir Björn, sker á hankann, og lætur stjórann falla í sjóinn. Ekki vandar Ólafur um þetta hið minnsta, en nú halda þeir til lands og ná ekki lendingu sinni. Þegar þeir voru landfastir, gengur Björn af skipi, og hraðar sjer sem mest hann getur úr sjóklæðum sínum, því hann var ekki ugglaus um, að eitthvað mundi í skerast. En sem Ólafur sjer þetta, bregður hann við skjótt og vill ekki verða seinni. Og þegar hann er kominn að öllu leyti úr sjóklæðum sínum, er Björn eigi kominn nema úr annari skálminni, og var sú mjög rifinn og með öllu ónýt, svo hafði hann flýtt sjer mikið, en orðið ærið stirðhendtur. Björn hætti þá, og mælti í hálfum hljóðum: „jeg held jeg hafi ætlað að flýta mjer nóg“. „Já“! sagði Ólafur, „en flas

er engin flýtir“, og kvað hann illa hafa skemt væn sjóklæði; síðan setja þeir upp skip sitt, og ganga til heimkynnis síns. Morguninn eptir vekur Ólafur menn sína, og kveðst nú vilja sækja skip sitt og afla. Síðan taka þeir sjóföt sín og fara á stað. Meðan þeir voru á leiðinni, gekk veður til bötnunar, og þegar þeir hafa hrundið fram skipi, segir Ólafur við menn sína: „í dag verður vindur hagstæður, og vil jeg að við róum til fiskjar, og sækjum svo seinna afla okkar, þann í gær“. Þeir gjöra svo. En þegar þeir koma á fiskimið, þá segir Ólafur: „láttu nú stjórann Björn“, „gjört skal það“, segir Björn; hleypur fram í barka skipsins, tekur þar stjóra mikin, knýtir á streng og kastar fyrir borð; á þessu áttu þeir enga von, en Björn hafði aflað sjer stjóra um nóttina og borið í skinnklæðum sínum til skips. Ólafur hafði farið eins að, og hafði annan hjá sjer í skutnum, svo þannig voru tveir stjórar á skipinu, er þeir höfðu borið ærin veg, en hásetar hugsuðu að enginn mundi vera. Þótti mörgum þetta hreystilega gjört, því Akurnesingar hafa skip stór og stjóra þunga að því skapi.

Eitthvert síðasta árið sem Ólafur fór með skip sitt suður, til að róa þar vetrarvertíð, fjekk hann andróður mikin. Þótti honum þá einn ungur maður á skipinu róa linlega, og eigi hitna mjög undir árinni, skipaðist þessi eigi meira

enn svo við brýninguna, að hann settist að lokum fyrir í barka skipsins, en Ólafur hlífði sjer eigi fremur en hann var vanur, þó kominn væri að elliárum. Þá er lent var, og farið var að bera upp farminn, mætti Ólafur manninum, og þótti lítil byrði hans, þá varð honum að orði: „Ekki berðu þungt núna G.....!“ hinn svaraði: „nóg finnst mjer það þungt“; í sama bili þreif Ólafur manninn á lopt með öllu saman, og færði niður í lón eða poll, er þar var, og sagði um leið: „Og ekki er það þungt!“

Þessa vertíð aflaði Ólafur næsta vel; þegar hann þá gekk heim frá róðrum, sagði maður við hann: „Mikið hafið þjer sókt sjóinn á ýngri árum“. „Já“ mælti Ólafur, „þó hefi eg margan dag setið í landi, er hásetar mínir vildu róa, og aptur margan dag róið, er þeir vildu vera í landi“. Hafði hann með slíku móti vanið þá, eins og hjú sín, á að hlýða og láta sig ráða, og sýnir það, að hann var mesti stjórnsemdarmaður.

Opt bar það við, er Ólafur var að smíðum, að margir komu að horfa á hann, og það á stundum mikill fjöldi, er hann var í veiðistöðum eða kaupstöðum. Var það mælt, að honum hefði eigi verið um það, og þá er á hann var yrt, þá gegndi hann sumu, en sumu ekki, en hjelt eins áfram verkinu. Var það allt öðruvísi er fáir voru hjá honum, eður sá, sem hann vildi

tala við, eða ef maðurinn hafði erindi, því þá var Ólafur hinn þægilegasti maður. Það var eitt sinn í Reykjavík, að mikill fjöldi horfði á hann, er hann var að smíða skip, og var að ganga kringum hann og skoða; þá leit hann snögglega upp, allt í einu, með hamar sinn eður exi í hendinni og sagði: „jeg verð að biðja fólkið að vara sig, því jeg er skeifhöggur maður“. Brá þá öllum svo við, að þeir stukku burt og þutu sinn í hverja áttina.

Árið sem steinkirkjan í Reykjavík varð fullgjör, var Ólafur Pjetursson ráðsmaður á útbúi, er Ólafur stiptamtmaður átti, að Helliskoti í Mosfellssveit. Þann dag er vígja átti kirkjuna var hæst vetrar, norðanveður og frost mikið. Ólaf fýsti að vera þar við, fór hann því í beztu föt sín um morguninn og lagði á stað; en sem hann kom ofan að Elliðaám, þá voru þær hvergi lagðar, heldur ólguðu og stóðu fullar af krapi. Hann vildi eigi verða af kirkjugöngunni fyrir þetta, nje heldur væta klæði sín, eða spilla þeim, fór hann því úr hverri spjör, batt fötin upp á herðar sjer og óð síðan báðar árnar undir hendur, kom svo þur og heitur ofan í Reykjavík. Fór enginn yfir árnar þann dag, nema hann einn.

Ólafur var eitt sinn, sem optar, að smíða hjá embættismanni nokkrum, er kallaður var merkur maður; var þá tilrætt, við einhvern sem kominn var, um fiskiveiðar og meðal annars það,

hvernig þorskurinn mundi fara að festa sig í netunum. Ólaf bar þar að, er verið var að tala um þetta, og var hann spurður að þessu, sem reyndur formaður; er svo sagt að honum hafi þótt þetta kynleg spurning, og svaraði: „Jeg veit það ekki, jeg hef aldrei þorskur verið“. Maðurinn brosti, en Ólafur gekk aptur til smíða sinna.

Eins og öllum skynsömum og fordildarlausum mönnum, var Ólafi lítið gefið um oflátunga, einkum þá er voru af lágum stigum, og fyrir skömmu höfðu verið í vesældómi. Einn slíkur birtist nokkru sinni í mannahópi á Skipaskaga, þá er Ólafur var þar; hafði sá nýlega verið tekinn úr fátækt, og var farinn að mannast heldur hjá höfðingja þeim, er það hafði gjört; hann hafði nú því líkast fas og snið á sjer, innan um sveitunga sína og kunningja, sem honum þætti þeir lágir hjá sjer, enda var og fallegri búningur hans, en þeirra, er hann var í góðri klæðistreyu með glæsilegum hnöppum í; en faðir hans var þá nýdáinn úr vesæld, og hafði aldrei eignast meira skartfat, en mórauða prjónúlpu. Eitt sinn er hann ljet sem mest, vatt Ólafur sjer að manninum, sem hann þó þekkti vel, spyr hann að heiti, skoðar síðan nákvæmlega treyu hans og segir: „þessa hafið þjer víst erft, eptir hann föður yðar heitinn“.

Maður nokkur sem talinn var í heldri röð, kom að Kúludalsá er Ólafur var í önnum að þurka hey, og krafðist fylgdar út að Innrahólmi. Ólafi þótti slíkt eingin þörf; því maðurinn hafði farið þann veg svo að segja dögum optar, og þar að auki lá vegurinn um hlíð nokkra, þar sem fjall er á aðra hönd, en fjörður á hina, en kvaðst þó skyldi segja honum til vegarins, ef hann þættist honum ókunnugur: „það á ekki að ríða út í sjóinn“, segir Ólafur, „og ekki heldur upp á fjallið“. — Annar kom til hans og ætlaði

sömu leið; maðurinn seildist ofan í vasa á yfirhöfn sinni til að ná í horn, er hann geymdi brennivín í; manninum gekk illa að ná því, enda var hann býsna ölvaður; þá mælti Ólafur: „þau eru vön að vera ofar“.

Opt kom það, eins og nærri má geta, að góðu haldi, að leita til Ólafs og spyrja hann ráða um eitt og annað. Einu sinni kom maður til hans, er nýbúinn var að láta smíða handa sjer skip og ætlaði að verða formaður fyrir sjálfur. Maðurinn segir honum frá, að kaupmaður nokkur hafi boðið sjer tólf spesíur í leigu fyrir sig og skipið, ef hann færi með það, en kaupmaður kosti útgjörð og taki allan ágóða. „Hvort á jeg nú heldur að gjöra“, segir hann, „að þyggja þetta boð, eður kosta útgjörðina sjálfur og reyna svo að hafa hagnað á því“. Ólafur svarar: „jeg er ætíð vanur að treysta betur guði en mönnum“. Maðurinn hlýddi þessu, gjörði sjálfur út skipið og tókst honum þetta svo heppilega, að hann gat borgað af aflanum, það sem hann var skuldugur fyrir skipið.

Sýslumaður nokkur sagði við Ólaf á þíngi, að það væri meining sín, að hann ætti peninga og þeir ættu að tíundast. Ólafur kvað það mundi rjett mælt, en gjörði lítið úr peningaeign sinni. Meðreiðarmaður sýslumannsins gall þá við sagði: „það er sjaldan hátt skóhljóðið þeirra“. Ólafur mælti: „rjett segir þú, drengur minn! þeir kunna það, sem aðrir hafa ekki vit á, en það er: að þegja“.

Maður nokkur, sem var við góð efni, þótti fara undarlega að ráði sínu; hann brá búi frá góðri jörðu, í byrjun túnasláttar og gjörðist tómthúsmaður við sjó, með fjenaði sínum. Ólafur var eitt sinn spurður að, hvað manninum myndi ganga til að gjöra þetta, sem öllum sýndist hin mesta ráðleysa; hann svarar: „Honum þykir þessi leiðin skemmst á húsganginn“.

Vera má, að til sjeu enn þá í kunnugra manna minnum ýms orð og atvik og smásögur eptir Ólaf Pjetursson,

sem þess væru verð að ekki liðu undir lok, og sem gefið gætu mönnum enn glöggari hugmynd um hann, heldur enn fengist getur af þessari litlu lýsingar tilraun; en sá sem þessi blöð hefur gefið út, hefur ekki átt kost á, að safna fleiru saman að sinni.

Ólafur Pjetursson er jarðaður að Saurbæjarkirkju á Hvalfjarðarströnd, og sjest þar grafskrift sú, er Jóhann prestur Tómásson á Hesti, gjörði eptir hann, og er hún svo látandi:



Hjer er lagður
liðinn öldungur,
**Ólafur Pjetursson,**
dannebrogsmaður,
fæddur 1764,
giptist tvisvar,
gat börn sjö,
dáinn 1843.

---

Hartnær einstakur atorku
og atgjörfismaður:
húsa og skipa
hagasti smiður,
hvass að hugviti,
hygginn, framsýnn,
friðsamur, stilltur,
fastlyndur, orðvar.

Dramb, yfirlæti
einkis matti.
Trúrækinn unni
ætíð hófsemi.
Mikill búhöldur,
mætur húsfaðir.
Ráðsmaður góður
gáfna drotttins.

---

Minning hans heiðruð
mun vara lengi.

*J. Tómásson.*

